[1]Nú er komit at landnámi Íngólfs; [en[2] þeir menn er nú eru[3] taldir hafa bygt í hans landnámi[4].

13. [5]Þorgrímr bíldr, bróðir Önundar bílds[6], nam lönd öll fyrir ofan Þverá, ok bjó at Bíldsfelli[7]; [hans leysíngi var Steinrauðr, son[8] Melpatrix af Írlandi; hann eignaðist öll Vatnslönd, ok bjó á Steinrauðarstöðum; Steinrauðr[9] var manna vænstr[10]; hans son var Þormóðr, faðir Kárs, föður Þormóðar[11], föður Brands, föður Þóris, [er átti Helgu Jónsdóttur[12].

---

1) *Denne Periode udel. E, men har her:* Íngólfr var maðr norrænn (*som Begynd. til et nyt större Afsnit*) o. *s. v.*, *see ovenfor I, 9, S.* 39, *Anm.* 3, *indtil dette Capitels Slutning*, *med Ordene:* Þormóðar Skeiða-goða. *Derpaa har den:* Íngólfr var frægstr allra landnámsmanna, því hann kom at auðu landi ok óbygðu, ok bygði fyrstr landit; gjörðu þat aðrir landnámsmenn eptir hans dæmum síðan; hann hafði numit land á milli Ölvisár ok Hvalfjarðar, fyrir utan Brynjudalsá, í milli (ok) Öxarár, ok nes öll út; því mælti svá Karli þræll Íngólfs: Til ills höfum vér farit um góð héruð, er vér viljum byggja útnes þetta, *jfr. I,* 8-9. 2) því, *Aa-e, Udgg.* 3) verða, *Aa-e, Udgg.* 4) *fra* [ *u. C.* 5) *C alene har Overskr.* Frá Þorgrími bíld. 6) sammœðri (sammæddr, *E*) við hann (*u. E*) var sun Úlfs frá Holi, hann, *t. C, E, Aa-e, Udgg.* 7) Bílzfjalli, *d. s., C.* 8) *Rett.;* f. (ɔ: faðir), *B.* 9) *rettet i Henhold til Læsemaaden i C, E;* Melpatrix, *B.* 10) *fra* [ Frá Steinröð (*C alene*). Steinröðr (Steinrauðr, *Aa-e, Udgg.*) Melpatrekssun (Melparekss., *Ab, e, Sk;* Melpanrekss., *Ae*), göfugs manns af Írlandi (Íslandi, *Skrivef.*, *Ab*); hann var leysingi (Steinröðar, *indskyder ved Skrivef. C*) Þorgríms bílds; hann átti dóttur Þorgríms, ok var allra manna vænstr; hann nam öll Vatnslönd, ok bjó á Steinröðsstöðum (Steinrauðsst., *E;* Steinrauðarst., *Aa-e, Udgg.*) *C, E, Aa-e, Udgg.* 11) Þormóz, *C.* 12) *fra* [ föður Brands á Þíngvelli (Þórir Brandsson átti Helgu Jónsdóttur, *t. Aa-e, Udgg.*) *C, Aa-e, Udgg.* — er á. H. Jónsdóttur; hann var faðir Brands á Þíngvelli, *E.*

[1][*Hrolleifr, son Einars*[2] *Ölvis sonar barnakarls, kom í Leiruvâg*[3], *þá er bygt var allt með sjó; hann nam lönd*[4] *til móts við Steinröð öll*[5] *fyrir utan Exará, er fellr um þíngvöll*[6], *ok bjó í Heiðabæ nokkora vetr. Þá skoraði hann á Eyvind í Kvíguvâgum til hólmgöngu eða landsölu, en Eyvindr kaus heldr at þeir keypti löndum*[7]. *Eyvindr bjó nökkora vetr síðan í Heiðabæ, ok fór síðan á Rosmhvalanes til Bearskerja*[8], *en Hrolleifr bjó síðan*[9] *í Kvíguvâgum, ok er þar heygðr; hans son var Svertíngr, faðir Gríms lögsögumanns at Mosfelli*[10].

Ormr[11] enn gamli, son Eyvindar jarls, Armóðs sonar[12] jarls, [Nereiðs sonar jarls ens gamla[13]; Ormr nam land [fyrir austan Varmá til Þverár, ok[14] um Íngólfsfell allt, ok bjó í Hvammi; [hans son var Darri, faðir Arnar. Eyvindr jarl var með Kjötva auðga[15] mót Haraldi konúngi í Hafrsfirði.

---

1) *C alene har Overskr.* Frá Hrolleifi; *Af har* Hrólfr. 2) Arnars (*Skrivef.?*) *C.* 3) Leirvâg, *Ae.* 4) *Rett.* land (*ur. læst* ld) *C, Aa-e*; ld, *E.* 5) allt, *E.* 6) *Rett. efter E, Aa-e, Udgg.*; þíngvell (*Afskriverfeil*) *C.* 7) keyptu jörðum, löndum *i Parenth., E.* 8) Bæarskerja, *E, Ad*; Bæar Skeggja, *Skrivef., Ab, c, e.* 9) *u. E.* 10) *Tillægget fra [ er taget af C, E, Aa-e, Udgg. Aa, d bemærker i Marg. at dette Capitel ikke er i Landnámu.* 11) *rettet efter B selv strax nedenfor, samt E, Aa-d, Udgg. I B staaer her* (G)rímr, *og ligeledes i C, men er forsögt rettet i denne.* 12) Arnmóðssonar, *C*; Arnrjóðssonar, *E* (*Skrivef.*) 13) *fra* [ hins sínka, *C*; Nereiðss. (Nereiss., *d. s., i B*) jarls, hins gamla ok sínka, *E, Aa-e, Udgg.* 14) *fra* [ á millim Varmár ok Þverár, *C, Aa-e, Udgg.* 15) *fra* [ hann átti Þórunni, dóttur Ketils kjölfara (kjalfara, *E, Aa, Udgg.*) þess er finngálknit barði í hel; hún var afasystir (systir,

Álfr enn egðski[1] stökk fyrir Haraldi konúngi[2] af Ögðum or Noregi; hann fór til Íslands, ok kom skipi sínu í ós þann, er við hann er kendr ok Álfsós heitir; hann nam lönd öll fyrir utan Varmá ok bjó at Gnúpum. Þorgrímr Grímólfsson [var bróðurson Álfs; hann fór[3] út með honum ok[4] tók arf eptir hann, því at Álfr átti ekki barn. Sonr Þorgríms var Eyvindr, faðir Þórodds goða[5], ok Özurar[6], er átti Beru, dóttur Egils Skallagrímssonar. Móðir Þorgríms var Körmlöð[7], dóttir Kjarvals Írakonúngs. [*Dóttir Þórodds goða*[8] *var Helga, móðir*[9] *Gríms glömmuðs*[10]*, föður Íngjalds, föður Gríms, föður Barkar, föður Ragnhildar, föður Valgerðar, móður herra Erlends, föður Hauks*[11].

14. [12]Þórir haustmyrkr nam Selvâg ok Krýsuvík[13], en Heggr[14], son hans, bjó at Vâgi. Böðmóðr, annarr son hans, var faðir Þórarins, föður Súganda, föður Þorvarðar[15], föður Þórhildar, móður Sigurðar Þorgrímssonar.

---

*E, Aa-e, Udgg.*) Grims ens haleyska; þeirra sun Ormr (vaını, *forsætlig utydelig skrevet i E;* Örn, *Aa-e, Udgg.*) enn gamli, faðir Darra, föður Arnar; hann var enn á (Eyv. j. var m. K. auðga, *E, Aa-e, Udgg*) *C, E, Aa-e, Udgg.*

1) ezki, *C.* 2) hinum hárfagra, *t. C, E, Aa-e, Udgg.* 3) kom, *E, Aa-e, Udgg.; fra* [ broðursun hans kom, *C.* 4) sá er arf tok, *C, Aa-e, Udgg.* 5) föður Skapta, *t. C, Aa-e, Udgg.;* er átti Rannveigu Gnúpsdóttur; þeirra börn Skapti ok Þórdis, móðir Ísleifs biskups, *t. E.* 6) Özur var ok sun Eyvindar, *C, E, Aa-e, Udgg.* 7) *saal.* (Korml. *Udgg.*) *C, Aa-e, Udgg.;* Kornlöð, *B, E.* 8) *fra* [ Þóroðs dóttir guða, *C.* 9) dóttir, *ur., Ab, c, e, Sk.* 10) *saaledes C, Aa-e, e, Udgg.;* glomriðs, *Ad;* glomar (=glomaðar?) *E.* 11) *fra* [ *taget af C, E, Aa-e, Udgg.* 12) *C alene har Overskr.* Frá Þóri haustmyrkr. *Aa citerer Hauksbók som Kilde.* 13) Krisuv, *Udgg.;* Krýsivik, *Ab, c, e, f.* 14) Veggr, *Ac.* 15) Þorvarðs, *E;* Þorvaldar, *Ae.*

[Molda-Gnúpssynir bygðu Grindavík, sem fyrr er ritat[1].

Steinuðr[2] en gamla, frændkona Íngólfs, fór til Íslands, ok var með Íngólfi enn fyrsta vetr; hann bauð at gefa henni Rosmhvalanes allt fyrir utan Hvassahraun, en hún [gaf fyrir[3] heklu flekkótta[4], ok vildi kaup kalla; henni þótti þat óhættara við riptíngum. [*Steinunni hafði átt Herlaugr*[5], *bróðir Skallagríms; þeirra son var Njáll ok Arnórr*[6].

Eyvindr hèt maðr, frændi Steinunnar ok fóstri[7]; honum gaf hún land milli Kvíguvâgabjarga ok Hvassahrauns; hans son var Egill[8], faðir Þórarins, [föður Sigmundar[9], föður Þórörnu, móður Þorbjarnar[10] í Krýsuvík[11], [*ok Álofar*[12], *móður Finns lögmanns, ok Freygerðar, móður Lopts, föður Guðlaugs smiðs*[13].

[*Herjólfr, sá er fyrr var frá sagt, var frændi Íngólfs ok fóstbróðir; af því gaf Íngólfr honum land*[14] *milli Reykjaness ok Vâgs; hans son var Bárðr, faðir Herjólfs, þess er fór til Grænalands ok kom*

---

1) *fra [ u. Ac.* 2) Steinunnr, *d. s,, C, E, Aa, b, d, e, Udgg.*; Steinunn, *Ae*; Steinvör, *Af.* 3) *fra [ u. ved Afskriverfeil, C.* 4) enska, *t. C, E, Aa-e, Udgg.* 5) Helraugr (*Skrivef*) *E*; Herlogr, *Sk, K*1. 6) *Tillægget fra [ taget af C, E, Aa-e, Udgg.* 7) Eyv. hèt frændi ok fóstri Steinunnar, *C, E, Aa-e, Udgg.* 8) Erlíngr, *C, Aa-e, Udgg.* (Egill, *Aa-d i Marg. efter Landn.*); Eigill Erlíngr (*begge*). *E.* 9) Sigvats, *C, E, Aa-e, K*1-2; *fra [ u. ved Feiltagelse, Sk. Aa-d anföre* Sigmund *i Marg. som Landnámas Læsemaade.* 10) Arnþjófssonar, *t. C, E, Aa-e, Udgg.* 11) Krísuv., *Udgg.* 12) Ólöfar, *E, Aa-e, K2;* Ólaufar, *Ad, e.* 13) *Till. fra [ taget af C, E, Aa-e, Udgg.* 14) lönd, *Ab, e, Sk.*

*í [hafgerðíngar. Á skipi hans var*[1] *suðreyskr maðr; sá orti Hafgerðíngadrápu; þar er þetta upphaf:*

*Allir hlýði ossu fulli*[2]
*amra fjalla Dvalins hallar*[3].

[4]Ásbjörn[5] Özurarson, bróðurson Íngólfs[6], nam land milli Hraunsholtslækjar ok Hvassahrauns, Álftanes allt, ok bjó á Skúlastöðum; hans son var Egill, faðir [*Özurar, föður*[7] Þórarins, föður Ólafs, föður Sveinbjarnar, föður Ásmundar, föður Sveinbjarnar, föður Styrkárs, [*föður Hafr-Bjarnar*[8], *föður þeirra Þorsteins ok Gizurar í Seltjarnarnesi*[9].

15. [10]Nú er yfir farit um landnám þau, er [vèr höfum heyrt at verit hafi[11] á Íslandi[12], en þessir landnámsmenn hafa göfgastir verit í Sunnlendínga fjórðúngi: Hrafn enn heimski, Ketill hængr, Sig-

1) *fra* [ hafgirðíngar á skipi (sinu, *t. Ae*); hann var (*E, Ac-e, Udgg.* 2) falli, *Ae.* 3) *Tillægget fra [ taget af C, E, Aa-e, Udgg. Aa-d citere Hauksbók.* 4) *C alene har Overskr.* Frá Ásbirni. 5) Arnbjörn, *Ae;* hèt maðr, *t. C, E, Aa-e, Udgg.* 6) hann, *t. C, E, Aa-e, Udgg.* 7) *fra [ till. efter C, E, Aa-e, Udgg.* 8) *fra* föður Ásm. *incl. u. Ab, c, e.* 9) *fra [ till. efter C, E, Aa-e, Udgg. E udel. alt det Fölgende, og fortsætter med Afsnittet om* Björn buna, *see ovenf. I,* 10 *og saa fremdeles.* 10) *C alene har Overskr.* Um skipan landsins. 11) *fra* [ verit hafa, *C, Aa-e, Udgg.* 12) eptir þvi sem fróðir menn hafa skrifat, fyrst Ari prestr hinn fróði, Þorgilsson, ok Kolskeggr hinn vitri. En þessa bók ritaða (ek, *nödvend. Tillæg i Marg. af Arne Magnussen*; ritaði herra, *Aa-e, Udgg*) Haukr Ellinzsun (Erlendsson, *d. s., Aa-e, Udgg.*) eptir þeirri bok sem ritað hafði herra Sturla lögmaðr (Þórðarson, *t. Aa-e, Udgg.*), hinn froðasti maðr, ok éptir þeirri bok annarri, er ritað hafði Styrmir hinn fróði, ok hafða ek (hafði, *Aa-e, Udgg.*) þat or hverri sem framar greindi, en mikill þorri var þat er þær sögðu eins báðar (báðar eitt, *Aa-e, Udgg.*), ok því er þat ekki at undra þó (at, *Aa, d, K2*) þessi landnámabók sé lengri enn nokkur önnur, *t. C, Aa-e, Udgg. Den sidste Sætning*: ok því er þ. e. — nokkur önnur, *u. Ab, c, e.*

hvatr rauði, Hásteinn Atlason, Ketilbjörn enn gamli, Íngólfr[1], Örlygr gamli, Helgi bjóla, [Kolgrímr enn gamli[2], Björn gullberi, Önundr breiðskeggr[3].

Svâ segja fróðir menn, at landit yrði albygt á LX vetra[4], svâ at eigi hefir síðan orðit fjölbygðra[5]; þá lifðu enn margir landnámsmenn ok synir þeirra. Þá er landit hafði LX vetra bygt verit, voru þessir höfðíngjar mestir á landinu: í Sunnlendínga fjórðúngi: Mörðr gígja, Jörundr goði, Geirr goði, Þorsteinn Íngólfsson, Túngu-Oddr; en í Vestfirðínga fjórðúngi: Egill Skallagrímsson, Þorgrímr Kjallaksson, Þórðr gellir; en norðr: Miðfjarðar-Skeggi, Þorsteinn Íngimundarson[6], Guðdælir, Hjaltasynir, Eyjólfr Valgerðarson, Áskell goði; en í Austfirðínga fjórðúngi: Þorsteinn hvíti, Hrafnkell goði, Þorsteinn, faðir Síðu-Halls, Þórðr Freysgoði; Hrafn Hængsson [hafði þá lögsögu[7].

Svâ segja vitrir menn, at [nökkurir landnámsmenn hafi skírðir verit, þeir er bygt hafa Ísland, flestir þeir er kvomu vestan um haf; er til þess

1) Arnarson, *t. Aa-e, Udgg.* 2) *fra [ u. Aa (ved Afskriverfeil)* 3) En í Austfirðínga fjörðungi: Þorsteinn hvíti, Brynjólfr hinn gamli, Graut-Atli ok Ketill Þiðrandasynir, Rafnkell goði, Böðvarr enn hvíti, Hrollaugr, sun Rögnvalds jarls, Özurr, sun Ásbjarnar Heyjángrs-Bjarnarsunar, er Freysgyðlingar eru frá komnir, Ketill hinn fiflski, Leiðólfr kappi. En í Norðlendínga fjorðúngi: Auðunn skökull, Íngimundr gamli, Ævarr, Sæmundr, Eirekr í Guðdölum, Höfða-Þórðr, Hælgi hinn magri, Eyvindr Þorsteinssun, Hámundr heljarskinn. En í Vestfirðinga fjörðúngi: Hrosskell, Skallagrimr, Selþórir, Björn hinn austræni, Þórólfr mostrarskegg, Auðr djúpauðga, Geirmundr heljarskinn, Úlfr skjálgi, Þórðr Víkingssun, *t. C, jfr. II,* 33, *Slutn.; III,* 20, *Slutn.; IV,* 13, *Slutn.* 4) vetrum, *Aa, e, f.* 5) *saal. C, Aa, c;* fjölbygðara, *Ab, d-f, Udgg.;* fjölbygðrr (*Skrivef.*) *B.* 6) *Rett.;* Íngolfsson, *B, C, Aa-e, Udgg.* 7) lögsögn, *Aa-e, K1-2; fra [ u. Sk.*

nefndr[1] Helgi magri ok Örlygr enn gamli, Helgi bjóla, Jörundr kristni, Auðr djúpauðga, Ketill enn fíflski, ok [enn fleiri menn[2], er kvomu vestan um haf, ok hèldu þeir[3] sumir vel kristni til dauðadags; en þat gekk óvíða í ættir[4], því at synir þeirra sumra[5] reistu hof ok blótuðu, en land[6] var alheiðit[7] nær hundraði vetra[8].

---

1) *fra* [ þessir hafi skírðir verit landnámsmenn, *C*, *Aa-e*, *Udgg.* 2) *fra* [ þeir flestir, *C*; þeir flèstir voru komnir vestan u. h., *Aa-e*, *Udgg.* 3) *u. C*, *Aa-e*, *Udgg.* 4) ætt, *Ab*, *c*, *e*, *Sk*, *K1.* 5) sumir, *Ab*, *e*, *Udgg.* 6) landit, *C*, *Aa-c*, *Udgg.* 7) *saal. C*, *Aa-e*, *Udgg.*; allheiðit (*d. s.?*) *B* 8) her endast Landnáma, *t. Sk.*

# VIÐBÆTIR.

## I. VIÐRAUKI SKARÐSÁR-BÓKAR[1].

Óaldar vetr varð[2] mikill á Íslandi í heiðni, í þann tíma er Haraldr konúngr gráfeldr fèll, en Hákon jarl tók ríki í Noregi; sá hefir mestr verit[3] á Íslandi; þá átu menn hrafna ok melrakka, ok mörg óátan ill var etin, en sumir lètu drepa gamalmenni[4] ok ómaga, [ok hrinda fyri hamra; þá sultu margir menn til bana[5], en sumir lögðust út at stela, ok urðu fyrir þat sekir ok drepnir[6]; þá vâgust skógarmenn sjálfir, þvíat þat var lögtekit at ráði Eyjólfs Valgerðarsonar, at hverr frelsti sik sá er iij dræpi seka[7].

Áttatýgi vetra síðar varð annat[8] óáran; þat hófst þann vetr er Ísleifr tók biskupsvígslu af Alberto Brima[9]biskupi; þat var um daga Haraldar konúngs Sigurðarsonar. En þann fyrsta vetr er Ísleifr biskup var á Íslandi, var manndauði sem mestr [á Íslandi[10] af sulti; þá var allt þat etit er tönn[11] festi á. En um sumarit lèt biskup því heita á þíngi, at menn skyldu fasta enn xij dag jóla um iij ár[12], þvíat svâ

1) *Denne Overskrift er tilsat af Udgiverne. K2 har kun Overskr.* Viðbætir; *Sk har Overskr.* Appendix eðr viðbætir sögunnar. *K1 har ingen Overskrift i Begyndelsen, men paa hver Side er Overskriften* „Landnámabok. Mantissa". *Haandskrifterne Aa-e, der alene have dette Tillæg, knytte det umiddelbart til Landnamabogens Text, og i Ab har en senere Haand endog tilföiet Capiteltallet* 16. 2) *Ab-e, Sk, K1*; inik. v., *Aa, K2*. 3) *Ab-e, Sk, K1*; orðit, *Aa, K2*. 4) gamla menn, *Ab, c, e, Sk*. 5) *fra* [ *u. Sk ved Feiltagelse.* 6) *u. Sk.* 7) *Ab-e, Sk, K1*; sekja, *Aa, K2*. 8) önnur, *Ad*. 9) Bruna, *Skrivef., Ab, è, Sk*. 10) *fra* [ *u. Ae.* 11) hönd, *Ae.* 12) vetr, *Ae.*

var gert í Herfurðu, þar er biskup hafði í skóla verit, á Saxlandi. Þá var svâ snæmikit hvervetna at menn gengu flestir til alþíngis; en er heitit var, batnaði þegar veðrátta, ok varð sumar hit bezta; en vetrinn eptir var svâ góðr at engi[1] kom þeli í jörð, ok gengu menn berfættir til [tíða um jól, en húsuðu[2] ok lögðu garða á þorra. Hit næsta sumar eptir var þat í lög tekit, at jafnan skyldi fasta hinn xij dag jóla, ef eigi bæri á drottins dag. Son Ísleifs biskups var Gizur biskup.

Bjarni Skeggbroddason sótti eldhúsvið [til Noregs[3], ok gjörði eldhús í[4] Krossavík hálffertugt föðmum, en xiiij álna hátt ok xiiij álna breitt; hann var því kallaðr Bjarni húslángr[5]; hann druknaði [með vij mann[6] á Skjálfanda, er hann fór til þíngs. Broddi Þórisson, bróðurson Bjarna húsláugs[7], færði skálann[8] mikla or Krossavík til Hofs ok lèt þar upp gera; hann var þá hálfþrítogr föðmum ok xiij álna breiðr ok xiij álna hár. Broddi var hinn mesti ágætismaðr, ok varð fèlaus; hann fór þá vestr til Hóla í Hjaltadal til Ketils biskups Þorsteinssonar ok andaðist þar með honum.

Sigurðr, son Sigmundar konúngs, er kallaðr var Fáfnisbani, ok Brynhildr Buðladóttir, áttu dóttur þá er Áslaug hèt; hún var fædd með Heimi[9] jarli í Hríngdölum, þar til er hann var drepinn. Ragnarr loðbrók, son Sigurðar[10] hríngs, átti Þóru, dóttur

1) eigi, *Ab, c, e.* 2) *fra* [ jólatíða; um jólin húsuðu þeir, *Ab, Sk.* 3) *Ab, c, e, Udgg.*; í Noreg, *Ad*; í Noregi, *ur., Aa.* 4) á, *Ab, e, Sk.* 5) húslaugr, *ur., Ac.* 6) *fra* [ *u. Ae.* 7) húslaugs, *ur., Ac.* 8) nýa ok, *t. Ac.* 9) *Aa, d, Kl-2;* Himi, *Ab:* Hymi, *Sk*; Húna, *Ac*; Huni, *Ae.* 10) Sigmundar, *Ab, Sk.*

Herrauðar Gautajarls; þeirra börn voru þau Agnarr, ok Eiríkr ok Óluf, er átti Hunda-Steinarr Englajarl; þeirra son var Björn, faðir Auðunar skökuls, föður Þóru mosháls, móður Úlfhildar, er átti Guðbrandr kúla; þeirra dóttir Ásta, móðir Ólafs konúngs ens helga. Annarr son Hunda-Steinars ok Ólofar hèt Eiríkr; hann var faðir[1] Sigurðar bjóðaskalla[2], föður Víkínga-Kára, föður þeirra Böðvars ok Vigfús ok Eiríks á Ofrustöðum[3], föður Astríðar, móður Ólafs konúngs Tryggvasonar. Dóttir Vigfús var Ástríðr, móðir Víga-Glúms, föður Vigfús, föður Bergs, föður Steinunnar, móður Þorsteins rángláts, föður Guðrúnar, móður Höllu, móður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends lögmanns, föður herra Hauks lögmanns[4]. Óluf hèt dóttir Böðvars hersis, er átti Teitr Ketilbjarnarson frá Mosfelli; þeirra son Gizur hvíti, faðir Ísleifs biskups, föður Gizurar biskups. Ragnarr loðbrók átti síðar Áslaugu, dóttur Sigurðar Fâfnisbana; Sigurðr ormr-í-auga var son þeirra, ok Hvítserkr ok Björn járnsíða, ok Ívarr hinn beinlausi ok Ragnhildr.

Hálfdan svarti Upplendíngakonúngr, son Guðrauðar[5] ljóma, átti Þóru, dóttur Haraldar gullskeggs, Sygnakonúngs, ok Sólvarar[6] Hundólfsdóttur[7] jarls or Fjörðum, systur Atla jarls ens mjóva. Son þeirra Hálfdanar ok Þóru var Haraldr; en er hann var úngr, þá andaðist móðir hans, en sveinninn litlu

1) son, *ur.*, *Ac*, *c*. 2) boðaskalla, *Ad*. 3) Fenstöðum, *utydel.*, *Ac*. 4) *u*. *Aa*, *K*2. 5) Guðmundar, *ur.*, *Ab*, *Sk*. 6) Solvorar, *Ab*, *c*, *e*, *Sk*. 7) *Sk*, *jfr. Landn. V*, 9; Hunnólfsd., *Aa*, *c*, *K*1-2; Hunólfsd., *Ab*, *c*.

síðar. Litlu síðar fèkk Hálfdan Ragnhildar, dóttur Sigurðar hjartar; móðir Sigurðar var Áslaug, dóttir Sigurðar orms-í-auga; þeirra son var Haraldr enn hárfagri. En þá er hann var x vetra, þá druknaði Hálfdan, faðir hans, á Hríngaríki, í[1] vatni því er Rönd heitir, er hann ók eptir ísinum; þá brast ísinn, er þeir komu á nautabrunna[2] fyrir Sverðsstöðum[3] í Rykinvík[4], ok druknaði hann þar ok allt lið hans; tók þá Haraldr konúngsnafn. En þá er hann var tvítogr, þá lagði hann fyrst undir sik Sygnafylki; en Atli jarl hafði aldri skatt goldit; en síðan lagði hann undir sik allan Noreg, sem segir í sögu hans.

Vikarr hèt konúngr, son Haralds Egða[5]konúngs; hans son var Vatnarr konúngr, sá er haug á fyrir sunnan Hákonarhellu. Einn kaupmaðr í Noregi var sá, er sagði sögu Vatnars, er þeir sigldu með landi fram, ok kallaði hann verit hafa ágætan mann; en er hann lá við Vatnarshaug, dreymdi hann at Vatnarr konúngr kom at honum[6] ok mælti við hann: þú hefir sagt sögu mína, vil ek þat launa þèr; leita þèr[7] feár í[8] haugi mínum ok mantu finna; hann leitaði, ok fann þar mikit fè.

Svâ er sagt, þá er Haraldr konúngr harðráði lá við Glaumstein í Hallandi með her sinn, þeir sá þar haug mikinn á sjáfarhellunni ok annann litlu ofar; hann spurði hverir þar væri leiddir, en þat kunni enginn at segja; en um nóttina eptir er hann

1) á, *Ac.* 2) bruna (brúna?) *Ab*, *Sk.* 3) Suersstoðum, *d. s.*, *Ab*, *Sk.* 4) *saal. Ac*, *d*, *e*, Ágr. af Noregskon. sögum, *F. S. X*, 377; Rikinnvík *el.* Rikinnvik, *Aa*, *b*, *Sk*, *K*1-2; Rikkilsvik, þáttr Hálfd. sv., *F. S. X*, 175. 5) Eyða, *Ac.* 6) um nóttina, *t. Ac.* 7) þú, *Ab-c*, *Sk*, *K*1. 8) á, *ur.*, *Sk.*

hafði þessa spurt, dreymdi Sigurð enn hvíta at maðr kom at honum í herklæðum ok kvað þetta:

Snjallr[1] á haug á[2] hellu,
Hjaldr á búð til kalda,
veki þèr í dag dreyra
drótt! nú er sigr á spjótum;
valdr man[3] hitt, at Hildar
blæjandi[4] rauð[5] ek blæju[6],
skjöld nefni ek svâ, sköfnum
skjóma, fyrstr at rómu.

Ena sömu nótt dreymdi Björn bukk, at annarr maðr kom at honum með hinum sama búníngi, ok kvað vísu:

Mín stóð búð síst[7] bræðra
brannz gekk hvârr fyrir annann
holl[8] ok hèldum[9] snjallir,
hèr fèllum þá, velli;
hrósar hug fyrir vísa
Hjaldr, eru víg til sjaldan[10],
gleðr oss þat, er val Viðri[11]
veit ek þik gefa teitan.

En er Haraldr konúngr kom til Noregs, þá sagði honum Kári enn svarti, frændi Þjóðólfs or Hvini, at þeir voru synir Vatnars konúngs þeir Snjallr ok Hjaldr, ok voru hinir mestu hermenn. Snjallr var faðir Einars, föður Ölvis barnakarls; hans son var Steinmóðr ok Steinólfr ok Grímr ok Einarr, faðir

1) Snjallor, *Ab*, *Sk*; Sjallr, *Ad*. 2) *Ad*; hauga, *Aa-c*, *Udgg*. 3) nam, *Ad*, *e*. 4) hlæmdi, *Ab*, *e*; hlæindi, *Sk*. 5) rauf, *Ad*. 6) blæin, *Ab*, *Sk*. 7) síðst, *Sk*. 8) höll, *Ab*, *d*, *e*. 9) heldu, *Ad*. 10) skjaldar, *Ae*. 11) virði, *Ad*.

þeirra Hrolleiſs, föður Svertíngs, föður Gríms at Mosſelli, ok Óleiſs[1] breiðs, föður þeirra Þormóðs skapta ok Óſeigs grettis. Svâ segja sumir menn, at Guðbrandr kúla væri son Óleiſs[2] breiðs; en Hjaldr var faðir Gríms, föður Bjarnar bunu. Björn buna átti Velaugu, systur Vemundar hins gamla; þeirra synir voru þeir Ketill ſlatneſr ok Hrappr ok Helgi, faðir Helga, föður Heyjángrs-Bjarnar, hverr er ríkr hersir ok ágætr var í Sogni.

Yxna-Þórir hèt maðr ágætr á Ögðum ok auðigr; hann átti þar[3] þær[4] iij eyjar er LXXX yxna var í hverri; en er Haraldr konúngr hárfagri bað hann strandhöggs, þá gaf hann honum eina eyna ok alla yxnina[5] með. Af því var hann kallaðr Yxna-Þórir, ok er frá honum komit mart stórmenni á Íslandi ok *í* Noregi. Son Þóris var Ósvaldr, faðir Ölvis hins hvíta, föður [Þorsteins hins hvíta, föður[6] Þorgils, föður Brodd-Helga, föður Víga-Bjarna.

Á því ári er Gizur biskup Ísleifsson andaðist, gerði hallæri mikit á Íslandi; þá kom hríð svâ mikil á[7] dymbildögum at menn máttu eigi veita tíðir í kirkjum í sumum stöðum ok hèruðum fyrir norðan land. Föstudag hinn lánga tók upp knör undir Eyjafjöllum ok sneri á lopti ok kom hvolfandi niðr[8]; hann var vj[9] rúm ok xx. Páskadaginn fyrsta máttu fáir menn tíðir sækja at taka þjónustu, en sumir urðu úti dauðir. Annat illviðri kom um

1) *I Ac i Marg. ur. forandret af Afskriveren til* Óſeigs. 2) *Rettelse bemærket i K1, optaget i K2;* Óſeigs, *Aa-c, Sk, K1.* 3) *u. Ac.* 4) *u. Ad.* 5) yxina, *Skrivef., Aa, K2;* yxna, *Skrivef., Ad, K1.* 6) *fra [ u. Aa-b, Sk.* 7) i, *Aa, K2.* 8) *u. ved Skrivef., Ab, Sk, K1.* 9) vij, *Aa.*

sumarit eptir andlát hans, þann dag er menn riðu á þíng; þá braut kirkju á Þíngvelli, þá er Haraldr konúngr Sigurðarson lèt[1] [höggva viðinu[2] til; þat sumar fóru XL[3] skipa[4] út híngat, ok braut mörg við land, en sum týndust í hafi ok leysti sundr undir mönnum, en átta ein kvâmust brott, með þeim er áðr voru hèr, ok kvâmust þau engi fyrir Michaelismessu[5] af hafi; af þeim mannfjölda varð hallæri [svâ mikit hèr á landi[6].

Þá er Gizur biskup andaðist, voru þessir mestir höfðíngjar á Íslandi: Hafliði Másson norðr, ok synir Ásbjarnar Arnórssonar í Skagafirði, Þorgeirr Hallason ok Ketill Þorsteinsson prestr[7]; en austr: Gizur Einarsson, Sigmundr Þorgilsson; hann andaðist á því ári í Rómför; en suðr: Hallr Teitsson, Skúli Egilsson[8]; en vestr: Styrmir Hreinsson, Halldórr Egilsson, Þorgils Oddason, Þórðr Gilsson, Þórðr Þorvaldsson [or Vatnsfirði[9]. Einum vetri eptir andlát Gizurar biskups var Þorsteinn Hallvarðsson veginu, göfugr maðr; en vetri eptir þat var þíng fjölmennt; þau misseri hafði svâ mikill manndauði verit, at Sæmundr prestr enn fróði sagði svâ á þíngi, at eigi mundi færri menn hafa andazt af sótt enn þá voru til þíngs komnir. Þat sumar var þröng mikil at[10] dómum; þá særði Þorgils Oddason Hafliða Mársson; þá varð um ekkert mál at lögum

1) hafði látið, *Ac.* 2) *fra* [ höggviðinn (*ved Læsefeil fra Ab, der har* högg^n viðinn) *Sk.* 3) xxxv skip, *Aa-e i Marg. efter Hauksb.* 4) skip, *Ab, c, e, Sk.* 5) *Aa, b, d*; Michaelsm., *Ac*; Mikaelsm., *Sk*; Mikkaelism., *K2*; Mikealsm., *K1*; Mikilsm., *Ac.* 6) *fra* [ *u. Sk.* 7) prestar, *Ac.* 8) Eyólfsson, *ur., Ac.* 9) *fra* [ *u. Sk.* 10) af, *Ac.*

dæmt; Þorgils varð sekr um áverkann ok sat í sekt[1] um vetrinn; þá var svâ lítill vâpnaburðr at ein var stálhúfa á alþíngi, ok reið drjúgum hverr bóndi til þíngs er þá var á Íslandi.

Þat vâr, er iij vetr voru liðnir frá andláti Gizurar biskups, andaðist Jón biskup at Hólum ix kalend. maji; þat sumar sat Hafliði Mársson á efrum[2] völlum með xcc[3] manna, ok ætlaði at banna Þorgilsi Oddasyni þíngreið; þar var með honum Hallr Teitsson ok Þórðr or Vatnsfirði, mágr hans, ok margir aðrir höfðíngjar; þat var hinn næsta dag fyrir Jónsmessu. Þorlákr biskup gekk þannig[4] til með kennimenn[5], ok leitaði[6] marga vega um sættir með þeim; en er þat tjáði eigi þá fyrirbauð hann þeim þar at sitja, ok lèzt mundu bannsetja þá, ef þeir gengi eigi heim; þá kvað Hafliði at þeir skyldi heim gánga til búða[7]. Þorgils reið á þíng með vij^c manna; með honum voru flestir höfðíngjar or Vestfirðínga fjórðúngi nema Þórðr or Vatnsfirði; en er um sættir var leitat, var þat í meðal þeirra at Hafliði vildi hafa sjálfdæmi um allt, óskorat, en Þorgils vildi undan taka goðorð ok staðfestu ok sektir allar; þann skakka gat Ketill prestr Þorsteinsson niðr felldan með umtölum sínum. Þat sumar var hann kosinn til biskups í stað Jóns biskups, ok fór utan. Þorgils handsalaði Hafliða sjálfdæmi, en hann gerði LX hundraða[8] vj álna aura vöruvirðs

1) sektum, *Ab*, c, e, *Sk*, *K*1. 2) efri, *Ad*. 3) = x^c cc; MCC, *C i* Kristni Saga; tólfhundruð, *K*1-2. 4) þángat, *Ac*; þann 19, *Sk* (*efter Ab, hvor ig aldeles ligner* 19). 5) kennimönnum, *Ac*, *d*; sina, *t*. *Ab*, e, *Sk*. 6) leituðu, *Ab*, *Sk*. 7) *Ab*-c, *Sk*, *K*1; uða, *Aa*, *K*2. 8) *u*. *Ab*, *c*, *Sk*.

ſjár í gulli ok[1] brendu silfri eðr í rífum aurum, eðr í gripum þeim er honum þætti gersimum sæta, ok hann virði sjálfr, eða þeir menn er hann tæki til; þetta fè handsöluðu vj menn ok unnu at ſimtardóms eið at þeir skyldu þetta fè gjalda sem fyrr var mælt. Þorgils ok Hafliði veittu sjálfir trygðir ok hèldu vel sætt þessa. Hafliði Mársson átti fyrr[2] Þuríði, dóttur Þórðar Sturlusonar; Þórðr hèt son þeirra; hann átti Sólvöru[3], dóttur Ásgríms Þórhallssonar[4]; Ívarr hèt son þeirra. Hafliði átti síðar Rannveigu, dóttur Teits or Haukadal; Sigríðr[5] hèt dóttir þeirra, er átti Þórðr í Vatnsfirði; Þórðr ok Páll voru synir þeirra. Valgerðr hèt önnur dóttir þeirra Hafliða; hana átti Íngimundr prestr Illugason ok Ornýjar[6], dóttur Þorkels Gellissonar; Illugi var son þeirra, er druknaði þá er hann flutti lím til steinkirkju þeirrar, er hann ætlaði at láta gjöra á Breiðabólstað í Vestrhópi.

Rögnvaldr jarl kali[7] var veginn v nóttum eptir Maríumessu fyrri[8].

Ólafr konúngr Tryggvason barðist á Orminum lánga næsta dag eptir Maríumessu síðari.

[9]Þessi eru nöfn biskupa þeirra útlendra er verit hafa á Íslandi: Friðrekr, Bjarnarðr[10], Ólafr Grænlendíngabiskup, Kolr, Roðólfr, Jón, Bjarnarðr[11], Heinrekr, Arnaldr[12] Grænlendíngabiskup, [Jón

1) eða i, *Aa*, *K2*. 2) *u. Ab*, *c*, *e*, *Sk*. 3) Sölvöru, *Sk*, *K1-2*. 4) Þórhalldzsonar, *Ac*, *c*. 5) Sigrið, *Aa*, *K2*. 6) *Rett.*; Ornýjo (Örnýju) *Aa-c*, *K1-2*; Oddnýju, *Sk*; Ornv, *C i* Kristni Saga (f. Orny r?) 7) koli, *Ab-d*, *Sk*, *K1*; *u. Ae*. 8) A° 1158 *t. Ac* (*de övr. i Margen*). 9) *Her citere Aa og d Hauksbók i Margen*. 10) Bjarnvarðr, *Ac*. 11) Bjarnvarðr, *Ac*. 12) Arnvaldr, *Ac*.

Grænlendíngabiskup[1] ok Helgi Grænlendíngabiskup[2]; verit hafa enn þeir fleiri er biskupar lètust vera: Guðiskolkr[3], Örnólfr, [ok iij[4] af Armenia: Petrus, Stephanus ok Abraham.

Friðrekr biskup kom í heiðni til Íslands með Þorvaldi víðförla, ok var at Gilljá ok Lækjamóti; Bjarnarðr[5] enn bókvísi var á Íslandi fimm vetr. *Húngrvaka segir, at Bjarnarðr[6] Vilráðsson hinn bókvísi hafi verit af Englandi ok farit til Íslands af ráðum Ólafs konúngs ens helga, því hann hafi[7] með honum verit áðr[8].* Kolr[9] fá ár; *hann var með Halli í Haukadal, ok er jarðaðr í Skálaholti fyrstr biskupa, segir Húngrvaka[10].* Roðólfr[11] xix ár; *hann setti múnklífi í Bæ í Borgarfirði; hann bjó ok[12] á Lundi.* [*Húngrvaka segir Úlfr biskup hafi verið af Rúðuborg or Englandi, ok nefndr því Rúðuólfr[13].* Jón hinn saxneski[14] iiij ár; [*Húngrvaka segir Jón írskan, ok farit hèðan til Vindlands[15], kristnat þar,*

1) *fra* [ *u. Ab-e, Sk, K1.* 2) *fra* [ *tilföiet i Marg. i Aa med Henviisningstegn.* 3) Guði Skolkr, *Fordreielse, Ab, c, e, Sk.* 4) Ógný, *Skrivef., Ad.* 5) Bjarnvarðr, *Ac, e, Sk.* 6) Bjarnvarðr, *Ab-e, Sk.* 7) hafði, *Ab, e, Sk, K1.* 8) *Denne Periode sætter Aa i Margen; med Hensyn til dens Indhold jfr.* Húngrvaka *Cap.* 3, Íslendíngabók *Cap.* 8. 9) var á Íslandi, *t. Ab, d, e, Sk, K1; K2 i Parenth.;* anno 1003 kom Kolr biskup til Íslands, ok var hér á landi, *Ac.* — *I Marg. have de övr. Haandskrifter A°* 1003, Kolr biskup kom til Íslands. 10) Húngrv. *Cap.* 2; *jfr.* Íslendíngabók *Cap.* 8. 11) var hér, *t. Ab-e, Sk, K1, K2 i Parenth.* 12) *u. Ab, c, e, Sk.* 13) Rúðólfr, *Ac, ḋ;* Rúðu-Úlfr, *Udgg. Aa har i Margen istedenfor Perioden fra* [ Úlfr biskup var af Rúðu or Englandi; *jfr.* Húngrvaka *Cap.* 3. 14) saxveski, *Ab;* saxverski, *Sk;* var hér, *t. Ab-e, Sk, K1; K2 i Parenth.* 15) *saal. efter* Húngrv. *Cap.* 3, *K1-2;* Vinlands, *Aa, Sk;* Vynlands, *Ab-e.*

*verit þar síðan píndr ok drepinn*[1]. Heinrekr[2] ij ár[3]. Bjarnarðr[4] xix ár; hann bjó at Giljá í Vatnsdal. *Húngrvaka talar svâ um þenna Bjarnarð*[5]*: hinn sjötti útlenzkr biskup var Bjarnvarðr biskup enn saxlenzki, er*[6] *var með Magnúsi konúngi enum góða, Ólafssyni, ok fór síðan til Íslands, ok var á Íslandi xx vetr; hann hafði ij bústaði í Vatnsdal, at Giljá ok Steinstöðum (ek*[7] *meina þat Steinnes); hann vígði marga hluti, þá er mörg merki hafa at vorðit: kirkjur ok klukkur, brúar ok brunna, vöð ok vötn, björg ok björllur, ok þikkja þessir hlutir hafa birt sanna tign hans ok gæzku. Bjarnvarðr var á Íslandi meðan Haraldr konúngr var í Noregi Sigurðarson, þvíat þeir voru eigi samsáttir; síðan fór hann utan, ok til handa Ólafi konúngi kyrra Haraldssyni, ok síðan fór hann til Róms at bæn konúngs, ok friðaði fyrir önduðum*[8]*; en er biskup kom aptr, þá skipaði konúngr hann biskup í Selju, en síðan fór hann í Björgvin ok andaðist þar, ok er einmælt hann hafi verit hinn mesti merkismaðr.*

1) *fra* [ *Aa i Margen.* 2) Hinnrik, *Ad*; var hèr, *t. Ab-e, Sk, K1; K2 i Parenth.* 3) vetr, *Sk, K1.* 4) Bjarnvarðr, *Ab, e, e, Udgg.*; var hèr, *t. Ab-e, Sk, K1; K2 i Parenth.* 5) Bjarnvarð, *Ab-e, Udgg.* — *Jfr.* Húngrvaka *Cap:* 3. 6) Bjarnvarð, hinn sjötta útlenzkan bp; hann var saxlenzkr (saxverskr, *Sk*) ok v. m., *Ab-e, Sk.* 7) ɔ: Björn á Skarðsá. 8) orðönum, *Ab, e, Sk.*

## II. VIÐRAUKI MELABÓKAR ENNAR ÝNGRI.

[1]Úlfljótr hèt maðr norrænn, systurson Þorleifs spaka; hann kom út í Lóni ok keypti land at Þórði skeggja allt fyrir austan Jökulsá. En þá er hann var nær hálfsextugr at aldri, fór hann utan ok var iij vetr með Þorleifi, frænda sínum; þeir samanskrifuðu lög þau er hann hafði út, ok þá voru kölluð Úlfljótslög. En er hann kom út, þá var sett alþíngi, ok höfðu þá allir ein lög hèr á landi, ok voru þau nokkurn veg samin eptir Gulaþíngslögum. Landinu var skipt í fjórðúnga um daga Þórðar gellis; þá skyldu vera iij þíng í hverjum fjórðúngi, en iij höfuðhof í hverri þíngsókn; þar voru menn vandaðir til at varðveita hofin, at vitrleik ok at rèttlæti; þeir skyldu dóm[2] nefna á þíngum ok stýra sakferlum; því voru þeir goðar kallaðir ok hofgoðar, en þeirra tign ok umdæmi kallat goðorð. Hverr skyldi ok gjalda hofstoll, eigi síðr enn nú kirkjutíund. Fè þat er til hofs var gefit skyldi hafa til mannfagnaðar, þar er blótveizlur voru. Nordlendínga fjórðúngi var skipt í iiij þíng; hann var stærri enn hinir fjórðúngarnir.

Þat var upphaf hinna heiðnu laga, at menn skyldu eigi hafa höfðuð skip í haf, en ef þeir hefði, þá skyldu þeir af taka höfuðit áðr enn þeir kæmi í landsýn, ok sigla eigi at landi með gapandi höfðum nè gínandi trjónu, svâ at landvættir fældist við.

Baugr tvíeyríngr eðr meiri skyldi liggja at hverju

1) *Dette Tillæg findes kun i Papiirshaandskriftet E.* 2) eiga, *t. Haandskr. urigtig, med mindre man skulde læse* „dómnefnu eiga".

hofi á stalli; þann baug skyldi hverr goði hafa á hendi sèr til lögþínga þeirra allra, er hann skyldi sjálfr heyja, ok rjóða þar í rauðn blótnauts[1] þess er hann blótaði.

Dómhríngr var á þíngstaðnum, er þeir menn voru í skipaðir, er þat straff höfðu, at þeir voru dæmdir til blóts. [Á Þórnes þíngi stendr steinninn eptir, sem þeir menn voru brotnir við, ok sèr enn blóðlitinn á steininum, segir Eyrbyggja][2].

Sá maðr hverr, er lögskil þyrfti af hendi at leysa at dómi, skyldi áðr eið vinna at baugi, ok nefna sèr vâtta ij eða fleiri, ok mæla svâ: ykkr nefni ek í þat vætti, [skyldi hann segja,[2]] at ek vinn eið at baugi, lögeið; hjálpi mèr svâ Freyr ok Njörðr ok Ás hinn almáttki, sem ek mun þessa sök sækja, eða verja, vitni eða vætti eða kviðu bera, eða dóm dæma, ok öll lögmæt skil af hendi leysa, þau er undir mik koma, meðan ek er á þessu þíngi, sem ek veit rèttast ok sannast ok helzt at lögum. Svâ sagði vitr maðr, Þormóðr, er allsherjar goði var á Íslandi, at með þessum orðum ok þíngmörkum helguðu lángfeðgar hans alþíngi.

Böðvarr hinn hvíti af Vors[3] or Noregi bygði fyrstr at Hofi; hann reisti þar hof, ok gjörðist þar hofgoði; hann var faðir Þorsteins, föður Halls á Síðu.

Hof í Vatnsdal ok Hof á Kjalarnesi hafa hèr á landi stærst verit, einkum stórt hundrað fóta á lengð, þat syðra var ok LX fóta breitt. Kór eða goðastúka var hjá hverju hofi, þar voru í goðin; Þórr

1) *rettet for* blótnauti. 2) *saal, i Parenth. i Haandskriftet.*
3) Noð, *Haandskr., urigt.*

eða Júppíter var æðstr ok mest göfgaðr, þá Freyr, sonr Óðins, conditor, sá er fyrst bygði Uppsali í Svíaríki; ok þó eigi sè glöggt at skilja, hve mörg goð eða með hverju nafni þau hafi verit hèr dýrkuð at sèrhverju hofi, þá eru þó í gömlum eiðstaf ánefndir þessir iij, Freyr, Njörðr ok Ás[1], sem vèr hyggjum þá meina með Óðin, af því hann var æðsti höfðíngi híngat í Norðrlönd kominn or Asía. Æsar eða Æsir kölluðust fleiri. Þessi goð stóðu á stalli eða háfum bekk; frammi fyrir þar stóð stalli með miklum hagleik, ok þiljaðr ofan með járni; þar skyldi á vera eldr, sá *er* aldri sloknaði; þat kölluðu þeir vígðan eld; á þeim stalli skyldi ok standa bolli mjök af kopar; þar skyldi í láta blóð þat allt, sem kæmi af fè því er þar var til gefit, eða mönnum þeim sem til blóts voru dæmdir; þat kölluðu þeir hlaut[2] eða hlautbolla[2], en hlautinni[2] skyldi bæði dreifa yfir menn ok fè. Vatzhyrna[3].

Þorsteinn Íngólfsson lèt setja fyrstr manna þíng á Kjalarnesi, áðr alþíngi var sett, við ráð Helga bjólu ok Erlygs at Esjubergi ok annarra vitra manna; ok fylgir þar enn sökum (þess) því goðorði alþíngis helgun. Þorkell máni lögsögumaðr var son Þorsteins Íngólfssonar; Þormóðr var son Þorkels, er þá var allsherjargoði, er kristni kom á Ísland. Þorgeirr Ljósvetníngagoði var þá lögsögumaðr.

[4]Hèr segir, hverir lögsögumenn hafa verit á Ís-

1) Ás synecdochicῶs, *Haandskr. i Marg. De foregaaende Ord vise at dette Stykke er taget af et andet Haandskrift end de Foregaaende, som ikke har haft den gamle Eedsformular.* 2) *saaledes rèttet; i Haandskr.* hlut, hlutbolla, hlutunum. 3) *uden Tvivl Navnet paa det Haandskrift hvoraf den foregaaende Paragraph er taget.* 4) *Her citeres „Landnáma" i Margen som Kilde.*

landi, ok hve lengi hverr hefir lögsögu haft — *eptir Landnámu ok svá öðrum bókum*[1]:

A° Christi

875. hóf Íngólfr at byggja Ísland fyrstr manna.

927. hafði Úlfljótr lög af Noregi til Íslands; (hann) kendi fyrstr lög á Íslandi, ok með hans ráði var alþíngi sett, en ekki hafði hann þar lögsögu, svá ritat sè.

930. Rafn, son Ketils hængs, hafði fyrstr hèr lögsögu, ok hann sagði lög upp um xx ár.

950. Annarr var þórarinn Ragabróðir, son Óleifs hjalta[2], lögsögumaðr um xx ár.

970. þorkell máni þorsteinsson lögsögumaðr um xv ár.

985. þorgeirr þorkelsson frá Ljósavatni xvij ár; á hans dögum kom kristni á Ísland.

1002. var Grímr Svertíngsson frá Mosfelli lögsögumaðr um ij ár.

1004. var lögsögumaðr Skapti, son þórodds goða, um xxvj ár; hann andaðist á sama ári ok Ólafr konúngr helgi fèll, a° 1030.

1031. var Steinn þorgestsson lögmaðr iij ár.

1034. þorkell tjörvi (lögsögumaðr) xix ár.

1054. Gellir Bölverksson lögsögumaðr ix ár.

1056. var vígðr Ísleifr, fyrsti biskup á Íslandi, til Skálholts; kom út árinu seinna.

1063. Gunnarr hinn spaki þorgrímsson lögsögumaðr iij ár.

1066. Kolbeinn Flosason (lögsögumaðr) vj ár. þat sumar fèll Haraldr konúngr Sigurðarson á Englandi.

1071. Gellir í annat sinn iij ár lögsögumaðr.

1075. Gunnarr annat sinn um j ár.

1076. Sighvatr . . . .[3] lögmaðr viij ár.

---

1) *I Haandskriftet findes enkelte Marginalier og Interpolationer efter Annaler, tildeels af senere Kilder, hvilke her ere udeladte som Landnáma mindre vedkommende.* 2) *Rett.*; Olleifs Hialltas. *Haandskr.* 3) *Lacun for Fadernavnet* (Surtr, *see Landnámabók II*, 25; *IV*, 11).

A° Christi

1080. Gellir lögmaðr í þriðja sinn.

1084. Markús Skeggjason tók lögsögn þat sumar, en andaðist 1093.

1093. Bergþórr Hrafnsson lögmaðr vj ár. En fyrsta sumar er hann sagði lög upp, var þat nýmæli gjört, at um vetrinn eptir skyldi rita lög at[1] Hafliða Márssonar Norðlendíngs, með ráði Bergþórs ok annarra spakra manna, þeirra er til þess voru teknir; skyldu þeir gjöra nýmæli þau öll, er þeim litist þau betri enn hin fornu lögin, ok skyldi þau segja upp næsta sumar eptir, ok þau lög haldast er meiri luti samþykti. Þá var ritaðr Vígslóði ok mart annat, ok lesit upp næsta sumar, ok líkaði öllum vel.

1097. [2]Tíundargjald lögtekit á Íslandi.

1108. Úlfhèðinn lögmaðr[3].

1116. Bergþórr aptr lögmaðr. Um þat leiti var kristinrèttr skrifaðr hèr ok lögtekinn.

1122. Guðmundr Þorgeirsson lögmaðr xvij ár.

1139. Rafn Ulfhèðinsson iiij ár.

1143. Finnr Hallsson vj ár.

1149. Rafn Úlfhèðinsson x ár.

1159. Snorri lögmaðr Húnbogason xv ár.

1174. Styrkárr Oddason x ár.

1184. Gizur Hallsson xxij ár.

1206. Hallr Gizurarson lögmaðr viij ár.

1214. Styrmir Kárason[4] lögmaðr v ár.

1219. Snorri Sturluson lögmaðr iiij ár.

---

1) *Rett.; H i Haandskr.* 2) *Her staaer Aarstallet i Texten med Lacun, men Factum med Aarstal i Margen.* 3) *Dette Aarstal og Navn staaer i Haandskr. ovenfor efter Aar* 1076. 4) *Denne Mand er* Styrmir fróði. *Fadernavnets Tilsætning er mærkværdig, da det endnu ingensteds er bemærket, jfr. Grönl. hist. Mindesm. I,* 19. *Sveinbjörn Egilsson antager, at* Styrmir *har været* Hermundarson, *see Scr. hist. Isl. X, Præf. S. XII-XIII og den vedföiede genealogiske Tabel III.*

A° Christi

1223. Teitr þorvaldsson iij ár.

1226. Snorri Sturluson annat sinn lögmaðr x ár.

1236. Styrmir Kárason annat sinn iiij ár.

1240. Teitr þorvaldsson annat sinn xij ár.

1252. Ólafr þórðarson lögsögumaðr iij ár[1].

1256. Ólafr þórðarson annat sinn j ár.

1257. Teitr Einarsson lögsögumaðr vj ár.

1262. svarit Hákoni ok Magnúsi Noregskonúngum Ísland ok þegnar, ok æfinligr skattr um Norðlendínga fjórðúng ok víðar, nema fyrir austan þjórsá; þar var játat skattinum ári seinna, sem var a° 1263.

1263. Ketill prestr þorláksson lögmaðr iiij ár.

1264. svaraði Ormr Ormsson riddari Noregskonúngum skattinum á alþíngi fyrir Síðumenn.

1267. þorleifr Ketilsson lögsögumaðr um iiij ár. Um þetta leiti var lögtekin Gulaþíngsbók, er Magnús konúngr setti.

1271. var Sigurðr þorvaldsson lögmaðr j ár.

1272. Næst eptir Sigurð var Jón Einarsson lögsögumaðr j ár.

1273. þorleifr Ketilsson í annat sinn j ár.

1274. Jón lögmaðr í öðru sinni ij ár.

1275. þorleifr lögmaðr í þriðja sinni j ár. Ok þá sendi Magnús konúngr til Íslands þorvarð þórarinsson ok Sturlu þórðarson lögmann ok Indriða með lögbók.

1272. telja sumir Sturlu lögmann í öðru sinni [*en nú er þrotin lögsögumanna þulan eptir minni Landnámu*]. þá var lögtekin lögbók sú er Magnús konúngr hafði sent til Íslands, öll nema erfðabálkr, utan þeir 2 kapítular er áðr var getit lögteknir hefðu verit.

---

1) *Herefter fölger Aarstallet 1255 uden nogen derved anfört Begivenhed.*

A° Christi

1273. þetta haust var játat á Íslandi at Marteinsmessu erfðabælkinum í lögbók þeirri er Magnús konúngr hafði sent til Íslands með Rafni ok Sturlu.

1280. kom Jón lögmaðr út með ena nýju bók.

1281. Lögtekin Jónsbók á Íslandi.
Svarit Eireki Noregs konúngi ok Hákoni hertoga land ok þegnar á Íslandi.
Loðinn leppr ok Jón lögmaðr lètu Íslands höfðíngja sverja Eiríki konúngi prestahatara trúnaðar hylli[1].

1283. útkoma herra Rafns ok herra Erlends með lögsögn ok konúngsbrèf, at leikmenn skyldu taka at sèr staði á Íslandi.

1284. þá voru teknar nokkrar kirkjueignir á Íslandi undir leikmanna vald.

1286. Utan stefnt nær öllum handgengnum mönnum á Íslandi, ok cc af bænda lýð.

1287. Erlendr lögmaðr.

1289. Fór Erlendr utan; kirkjur á Íslandi gefnar aptr í vald biskupi Árna í öllu Skálholts biskupsdæmi.

1290. kom út Erlendr lögmaðr; en sumir setja hans útkomu uppá datum 1292, ok voru honum þá veittir Vestfirðir.

1291. gefnar kirkjueignir prestum Skálholts biskupsdæmis.

1292. útkoma þórðar Hallssonar ok Herra Christophori Vilhjálmssonar með[2].

---

1) eiða, *Haandskr. i Parenth.* 2) *Her afbrydes Haandskriftet nederst paa Side* 73. *Næste Side er blank.*

## III. NÝFUNDIÐ BROT MELABÓKAR ENNAR ELDRI[1].

[*Hèr hæfvir upp landnáms sögur Íslendínga*[2].

[3]HÈR[4] hefiaz upp landnám í Sunnlendínga fjórꝺúngi, er nú má þikia meꝺ mestum blóma ok umveizt til virꝺíngar allz vors landz, firir guꝺs gæzlu ok hinu æztu höfꝺíngia, er nú giæta meꝺ honum þessarar landzbygꝺar ok í þeim fjórꝺúngi byggia.

Maꝺr hèt Þrasi, Þórólfsson, Heriólfssonar hornabriótz; hann fór af Hörðalandi til Íslandz, ok nam land á milli Kalldakofsár ok Jökulvíkurár ok bjó í Skógum hinum eystrum; hans son var Geirmundr, faꝺir Þorbiarnar, föꝺur Brandz í Skógum.

Hrafn hinn heimski Valgarꝺzson, Æfvarssonar, Vemundarsonar vâganefs, Þórólfssonar orꝺlokárs, Þrándarsonar hins gamla, Haralldzsonar hillditannar, fór or Þrándheimi til Íslandz, ok nam land á milli Kall(d)akofsár ok Lambafellzár, ok bió at Raufarfelli hinu eystra, ok var göfugr maꝺr, auꝺigr ok ættstórr; hans börn voru Helgi, Jörundr goꝺi ok Freygerꝺr.

---

1) *Dette Brudstykke, paa 2 Membranblade i Qvartformat blandt de saakaldte Additamenta i Universitets-Bibliotheket Nr. 20 Fol., er benyttet i Varianterne til denne Udgave af Landnámabók under Mærket Ec. I dette Aftryk beholdes Membranens Retskrivning med Undtagelse af Interpunction og Accenter, samt at Sigler og Forkortninger udföres; ligeledes adskilles d og ꝺ samt u og v. Istedenfor Membranens* ꜳ *have vi sat* á *eller* â, *nemlig hvor Skrivemaaden afvexler med* o. 2) *Denne Overskrift staaer paa en Seddel med Arne Magnussens Haand. Nu seer man kun at der har været en Overskrift med Rödt, men Bogstaverne kunne ikke skjelnes.* 3) *See Landnámab. V, 1, S. 275.* 4) *De fleste Begyndelsesbogstaver, som have været malede röde og grönne, kunne nu enten aldeles ikke sees eller kun skimtes i Omrids.*

Ásgeirr hneif[1] hèt maðr, son Oleifs hins hvíta, Skælíngssonar, Þórólfssonar. Móðir Þórólfs var Þórhilldr Þorsteinsdóttir haugabriótz; hann kom til Íslandz, ok nam land á milli Lambafellzár ok Selialandzár, ok bió þar er nu heitir ath Auðnum; hans synir voru Jörundr ok Þorkell, faðir Augmundar, föður Jóns biskups hins helga. Dóttir Ásgeirs var Helga, móðir Þórunnar, móður Thorláks, föður[2] Þórhallz, föður Thorláks biskups hins helga.

Þorgeirr hinn havrðzki, son Bárðar blönduhorns, foor or Vyg(g)iu or Noregi til Íslandz; hann keypti lönd at Ásgeri á milli Lambafellzár ok Ýrár, ok bygði fyrstr í Hollti; en fám vetrum síðar fèck hann Ásgerðar, ok voru synir þeirra Þórir í Hollti ok Þorgeirr hinn mykli.

Ófeigr hèt maðr ágiætr í Raumdælafylki; hann átti Ásgerði, dóttur Asks hins úmálga; hann varð missáttr við Haralld konúng ok bióz af því til Íslandsfarar. En er hann þóttiz búinn til útlátz, þá lèt konúngr taka hann af lífvi, en Ásgerðr fór út með börn þeirra ok Þórólfr, bróðir hennar laungetinn. Hún nam land á milli Selialandzmúla ok Markarfliótz ok Lánganess allt upp til Jolldusteins, ok bió norðan í Katanesi. Börn Ófeigs ok Ásgerðar voru Þorgeirr golldnir ok Þorsteirn flauskuskegg, Þorbiörn hinn kyrri, Álof elldliðaskiölldr ok Þorgerðr, er átti Finnr Oddkelsson.

Þórólfr, bróðir Ásgerðar laungetinn, nam land at ráði hennar fyri vestan Fliót: Þórólfsfell, á milli Deilldará ij, ok bió hann þar sijðan; hann fóstraði

1) *to Gange i Membr.* 2) m. (móður), *ur., Mbr.*

[Þorgeir goldni[1], son Ásgerðar, er þar bió sijðan; hans son var Niáll, er inni var brendr með vij mann at Bergþórshvâli.

Ásbiörn Reyrketilsson ok Steinfinnr, bróðir hans, námu land fyri ofan Krossá ok fyri austan Fliót. Steinfinnr bió á Steinfinzstöðum, ok ær ecki manna frá honum komið. Ásbiörn helgaði landnám sitt Þór, ok kallaði Þórsmörk; hans son var Ketill, er átti Þuríði, dóttur Þorgeirs golnis; börn þeirra voro Helgi ok Ásgerðr[2].

Sighvatr hinn rauði hèt maðr göfugr í Noregi; hann fór til Íslandz ok nam land fyri vestan Markarfliót: Einhyrníng(s)mörk fyri ofan Deildará, ok bió í Bólstað; hans son var Sigmundr, er fèll við Sandhólaferiu, faðir Marðar gígiu. Hárekr var annar son Sighvatz, faðir Þórðar, föður Steina.

Jörundr, son Hrafns hins heimska, bygði fyri vestan Fliót, þar er nú heitir á Svertíngsstöðum, ok gerði þar hof mikið. Biórr lá únuminn á millum Krossár ok Jolldusteins; þat land fór Jörundr elldi ok lagði til hofs; hann átti margt barna, ok er frá öllum stórmenni komið.

Þorkell bundinfóti nam land umhverfiss iijhyrníng ok bió þar undir fiallinu; hann var hamrammr miök; hans son var Börkr bláskeggr, faðir Starkaðar undir iijhyrníngi.

Baugr[3] var fóstbróðir Hængs; hann fór til Íslandz, ok var hinn fyrsta vetr á Baugsstöðum en annan með Hængi; hann nam síðan Fliótzhlíð alla

---

1) *fra* [ goldni Þorgeir, *Mbr.* 2) *Her udelades Afsnittet om* Ketill hængr, *S.* 281-83. 3) Börkr, *her, Mbr.*

ofan um Breiðabólstað til mótz við Hæng, ok bió at Hlíðarenda; hans son var Gunnar í Gunnarshollti, faðir Hámundar, föður Gunnars ok Helga, Hafrs, Hjartar, Orms skógarnefs.

Hilldir ok Hallgeirr bræðr ok Liót, systir þeirra, voru Vestrmenn; þau námu land, er þau komo til Íslandz, á milli Fliótz ok Rángár, Eyrasveit upp til Þverár. Hilldir var faðir Móeiðar; hann[1] bió í Hilldiseyiu[2]. Hallgeirr var faðir Möblar, er átti Helgi, bróðir Vestars, er bió í Hallgeirseyiu, en Liót bió á Lióta(r)stöðum.

Dufþakr hèt leysíngi þeirra, er nam Dufþakshollt ok var hamrammr miök, ok svo var ok Stórólfr at Hvoli; en þá skildi á um beit; þat sá ófreskr maðr um aftan, nær dagsetri, at biörn mikill geck frá Hvoli, en griðúngr frá Dúfþakshollti ok *fun*[3]duz á Stórólfsvelli, ok genguz þar at reiðir[4] . . .

. . . . . . . .

---

. . . [5]Þeirra dóttir var Vigdís, ok Ásdís, er átti fyrr Þorbiörn Þorvalldzson, bróðir Mána–Ljóts. Þeirra dóttir var Þuríðr, er átti Þorgrímr Oddzson; þeirra son var Geirmundr í Máfahlíð ok xiiij börn önnur. Vighdísi Kolladóttur[6] átti Þorbiörn hinn digri; þeirra dóttir var Þuríðr, ær átti Þrondr at Vatni. Börn þeirra voru Þórir, Biarni, Tiörfi, Val-

1) er, *Mbr.* 2) Hilldrs eyiu, *Mbr.* 3) *Hul paa Membranen.* 4) *Her afbryder det förste Blad; jfr. S.* 289. 5) *Her begynder det andet Blad af Ec. See Landnámabók II*, 8, *S.* 87, *Anm.* 13. 6) *bör være* Bárðardóttur, *da* Ásdís *kaldes saaledes strax efter, men i Begyndelsen af Brudstykket anföres de som Söstre; jfr. ogsaa Udgaven S.* 87-88.

gerðr, er átti Runólfr biskupsson. Ásdísi Bárðardóttur átti síðarr Skúli Jörundarson; þeirra dóttir var Valgerðr.

Alfarinn, son Vala hins sterka, nam fyrst land á milli Beruvijkr ok Enniss.

Höskulldr [hèt maðr, er bió[1] á Höskolldzstöðum; en Íngialldr at Íngiallzhvâli; en Goti ath Gotalæk; en Hólmkell at Forsi við Hólmkelsá.

Óláfr belgr hèt maðr, ær nam land inn frá Enni allth thil Fróðár[2], ok bió í Oláfsvijk.

Ormr hinn miófi hèt maðr, ær kom skipi sínu í Fróðá; hann bió nockora vetr á Brimilsvöllum. Sijðan rak hann á braut Óláf belg, ok bió síðan at Fróðá, ok nam vijkina gömlu á milli Ennis ok Höfða; hans son var Þorbiörn, ær átti Þuríði, dóttur Bárðar[3] hins digra; þeirra son var Þorgeirr, faðir Hróðnýiar, ær átti Þorsteirn Styrsson.

Sigurðr svijni á Kvinvâgaströnd gaf Heriólfi syni sínum geit, en skógarbiörn beit geitina firir Heriólfi, ˜æn hann vâ biörninn í einvijgi, þá ær hann var xij vetra gamall; sijðan hefndi hann föður síns harðfeingliga. Sijðan fór Heriólfr hrockineista til Íslandz, ok nam land á milli Höfða ok Kirkiufiarðar; hans son var Kolskeggr, faðir Þórólfs, föður Þórarins Máhlíðíngs.

Vestar hèt maðr, son Þórólfs blavðruskalla, hann átti Spavnu Hronars[4]dóttur, þeirra son var Þorleikr geirr, ær nam Æfarsland ok Kirkiufiörð; hann átti Helgu Kiallaksdóttur; þeirra son var Þor-

---

[1]) *fra [ over Linien med Henviisningstegn.* [2]) Stoðar, *Mbr.*
[3]) *uden Tvivl Skrivefeil for* Barkar. [4]) H°nars eða H°uars, *Mbr.*

leikr, ær átti Þoríði, dóttur Auðunar stota; þeirra börn voru Þórðr, Þorleikr, Þormóðr, Bergþórr, ær fèll á Vigrafirði, Helga, ær átti Ásmundr Þorgestzson; þeirra dóttir var Þuríðr, ær átti Þorbiörn, son Þorlleifs frá Hafragili; þeirra son var Þórðr Rúpeyiarskálld[1], ær átti Helgu Þórhalldzdóttur, Kálfssonar; þeirra son var Hrafnkell, er Skálld-Hrafn var kallaðr.

Kolr hèt maðr, ær nam land út frá Tröllahálsi, ok út frá Fiarðarhorni, Borðeyri til Hraunsfiarðar, ok bió at Kolgröfum; [hans son var Þórarinn[2].

Auðun stoti hèt maðr, er nam Hraunsfiörð, inn frá Svínavatni, fyri ofan hraun til Tröllaháls[3]; hans börn voru Þorsteirn, f.[4] . . . . . . . . . . . . .

Biörn hinn austræni nam land frá . . . . . . . .
. . . . . ok bió í Biarnarhöfn; synir hans . . . . .
. . . . . . . . . . . . . . . . . Kiallakr átti Ástríði . .
. . . . . . . . . . . . . . Þorgrímr . . . . . . . . . . . .
*vð*, en Þorbiörn ska*v* . . . . . . . . . . gi . . . . . .
. . . . . . . . . . . .

Þórólfr mostrarskegg nam land frá Stafá til Þórsár; ok bió í Hofsvâgi; hans synir voru Hafrsteirn goði, faðir Þorsteins surtz, ok annarr Þorste*i*rn Þorskabítr, faðir Þorgríms, föður Snorra goða, föður Halldórs, föður Snorra, föður Guðrúnar, móður Hreins ábóta, föður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús á Melum.

1) skälldz, *Mbr.* 2) *I Linien nedenfor, men adskilt fra det övrige og uden Tvivl hörende herhid.* 3) Tröllahrauns, *uden Tvivl ur., Mbr.* 4) *Her er et stort Hul paa Membranen og kun Stumper af Linierne tilbage.*

